# Aðfinning

við

# Eineygða Fjølnir

Samantekin og útgéfin

af

Jóhni Hjaltalín

*Dr. Medic. &. Chirurgiæ*, útnefndum Batallions *Chirurg* við Hans Hátignar Konúngs vors eigin herlíðsflock.

---

Videyar Klaustri,

1839.



Betur sjá augu enn auga seigir gamall málsháttur ockar Íslendínga og er hann mála sannastur, það sjest nú ogsvo á að hann sannast á Fjølnir, því þótt opt hafi Bæklíngur þessi glámskígn verið, þá hafa þó aldrei verið eins mikil brøgð að því sem nú, síðan hann varð einsýnn*). Það mun alkunnugt á Landi hér, hvílíkri mótspirnu og óvild manna Bæklíngur þessi, bæði að undanførnu og nú hefur mætt, og má það með sanni segja, að það sé ei um skør fram, því það hefur alla tíma í heimi gengið svo, að menn hafa ei til lengdar þolað ójøfnuð af einstaka mønnum; aungvu að síður er ei annað að sjá enn að Fjølnir altaf ætlist til þess að menn þoli allar hans athafnir með jafnaðargéði og þøgn. Þegar útgefendur Fjølnis byrjuðu á honum, hétu þeir mønnum miklu, og urðu því margir til að girnast Bæklínginn í fyrstu, en færri ætla eg nú að hinir séu sem þiki von sín uppfilld, og munu menn ei hafa ætlast til þess að bók þessi yrði næstum því að Níðriti. Það er alkunnugt að Rithøfundar Fjølnirs hafa verið og eru

*) Eineygðann kalla eg Fjølnir nú, þareð hinir Rithøfundar hans, að einum undanteknum, eru gengnir úr skaftinu.

enn úngir og litt-reindir menn, og munu því margir af löndum þeirra hafa búist við því, að þeir birjudu ei svo geist og óforsjállega sem þeir gjörðu; enda gaf raun vitni, því ecki vardi lengi, ádur mörgum af hinum helstu og vitrustu mönnum í landinu þókti nóg um, og urdu því ýmsir af þeim til, ad finna að Bæklíngnum. Það væri líka skömm ef íslendska þjóðin væri svo frábrugdin öllum ödrum þjóðum, að hún þildi einstökum úngum mönnum óþarfa adfinníngar á sínum helstu efnum og atgjörðum að ósekju og þegjandi. Aungvu að síður sýnist ennú sem Fjölnir ætlist til þess, að allir trúi, að hann einn hafi vit á öllum hlutum og einginn skuli þora honum móti að mæla, og satt að segja hefur hann aldrei bodið mönnum slíkann ójöfnuð sem nú.

Það á því að verda áform þessara fáu lína sem hér eru skrifaðar, að benda á nockrar greinir í Fjölni sem helst sýnast að þurfa adfinníngar við, og þó að nú máské ei takist svo vel sem skyldi, verð eg að biðja landsmenn mína umburdarlyndis, og vona að flestir af þeim sjái að það er ei audgjört verk að gjöra svo öllum líki.

Því verdur vart neitað að það þarf þolinmædi til að lesa Fjölnir eins og hann nú er, því ordafjöldinn um sama efnið er svo framúrskarandi, að það er opt treint á heilar arkir sem komist gæti á nockrar bladsídur, og þegar á allt er litið (að eg brúki ordatiltæki Fjölnis) er Ritþöfundurinn stundum kominn útí þvílíkar Gönur, að bagt veitir að fylgja hans margflækta

þánka-gángi. Það er sjálfsagt, að það er ei öllum gefið að skrifa stutt og þó undireins gagnorðt og skiljanlega, en af öllum þeim er til menta hafa settir verið, væri það þó heimtandi, að þeir gjörðu það nockrum mun betur enn Rithöfundur Fjölnis gjört hefur híngað til. Það er án efa það stærsta lof sem nockur Rithöfundur getur fengið, þegar um hann verður sagt: að hann skrifi stutt og gagnorðt, og það er lángtum nær að finna að ofmikilli yrðamælgi hvar sem hún finnst, enn að ætla að gánga af göblunum yfir því þó að í bókum finnist nockrar prentvillur, sem öllum lesurum er hægt að lagfæra.

Fjölni er á þessu ári skipt í 2 Flocka, af hvörjum hinn fyrri kallast íslendski Flockurinn og hinn síðari Fréttabálkurinn; að undanteknum nockrum Qvedlíngum sem eru all snoturlega gjörðir, inniheldur íslendski Flockurinn lángann kafla um Fólksfjölgunina á Íslandi, og annann um bókmentirnar íslendsku. Þó því verði ecki neitað að sá fyrri (um fólksfjölgunina á Íslandi) sé víðast hvar nockurnveiginn vel skrádur, þá er það þó audsjeð, að Rithöfundinn vantar djúpsæri þá er hinn maðurinn, sem fyrir nockrum árum skrifaði Bæklínginn: Om Islands Folkemængde, hefur í þessu Riti sínu látið í ljósi, að eg nú ecki tali um varkárni þá í Dómum er sá síðartaldi hefur yfir þann firri.

Hinn síðari kaflann í þessum áðurtalda Flocki sem hljóðar um íslendsku bókmentirnar, mætti Rithöfundurinn óska að hann aldrei hefði skrifað, því betri er

eingin Ritgjørd enn slík, sem auk annarar heimsku, stídur síg vid ógrundada slettudóma, fer med ósannindi, og mótsegir á sumum stødum sjálfri sér. Eg ætla ad madur þurfi ecki ad lesa meir enn fyrsta bladid í Ritgjørd þessari til þess ad sannfærast um þad, hvad laglega Fjølnir fer ad mótsegja sjálfum sér, svo sem á blss. 73 og 74 þar hann segir: „Þad verdur ecki varid — þó ljótt sé frá ad seigja, ad þær bækurnar (af þeim sem árlega koma á prent) hafa nú um hríd átt mest láni ad fagna, er sumar hvurjar væru vest farnar, ef þær ætti ad meta eptir skinsamlegri og kristilegri upplýsingu. Þetta meina eg til rímnanna, hinna nýu og hinna gømlu, og til gømlu gudræknisbókanna." En einmidt á sømu bladsídu sem þessi sídstu ord standa, segir hinn saml Rithøfundur: „Samt er ecki verid ad nidra bókunum sjálfum, ad því leiti sem gømlu gudræknisbækurnar snertir." Nú má eg spyrja hvørn heilvita Lesara, hvørt nockur verri nidrun eda last géti sagst um nockra gudræknisbók, enn þad, ad segja ad hún væri sem vest farin, ef hana ætti ad meta eptir skinsamlegri og kristilegri upplýsíngu; og samt segir sami Rithøfundur þó strax á eptir, ad ei sé verid ad nidra sjálfum gømlu gudræknisbókunum. Þad lítur svo út sem Rithøfundurinn hafi hér sem vídar, annadhvørt gleimt sjálfum sér, eda ad hann hafi fengid Samvitskusløg af því ad hann fór ad lasta gømlu Gudræknis bækurnar, af hvørjum margar án efa innihalda

margt þad er samqvæmt er skinsamri og kristilegri upplýsíngu, bædi á vorum døgum og fyrr.

Þegar Ritbøfundurinn er búinn ad fara fleirum ordum um gømlu Bækurnar og hefir drepid á ad þær hnecki upplýsíngunni, fer hann nockrum ordum um þad sem athuga þarf, þegar verid er ad tala um, hvernin haga eigi Bókmentum. Fram úr því leidist hann til ad sýna hvad illa val alþýdu á bókum sé tiltekid, þar hún velji mest gamlar Gudsordabækur og Rímur, af hvørjum þær flestu séu til nidurdreps upplýsíngunni; og þad er audsjed á því sem seinna kémur í þessu Riti, ad hann kénnir Prentverkinu í Videy og þess Stjórnun mest um þetta, því Fjølnir verdur nú svo ákafur um þetta mál, ad hann segir: „Nú hefur þad (nefnil. „prentverkid) á sídustu árunum verid mentuninni „beinlínis til nidurdreps, og til ad steipa øll„um fyrirtækjum henni til eflíngar. Þetta „verdur ecki rekid; prentverkid er hætt ad „láta sig nockru skifta, hvurnig fari um „mentun landsins. Þad er leigt út svosem „væri þad konúngsjørd, sem húsbóndinn má „fara med eins og hann vill, ef hann einúng„is getur greidt afgjaldid í gódum og gildum „landaurum. Yfirvøldin láta sig aungvu „varda hvornig þad er brúkad, edur hvad „prentad er, ef ad einúngis húslestrarbæk„urnar (gømlu) eru til, etc."

Þad er bágt á þad ad gitska hvad stírt hefur penna Ritbøfundarins þegar hann skrifadi þetta; og

mørgum þeim er vildu reina til ad áfsaka hann, mætti sýnast svo sem þetta væri skrifad í nockurskonar Vitfirríngi, því þad er óskiljanlegt, hvørnin heilvita madur þorir ad fara med slík ósannindi; og þó vogar Fjølnir ad hnita því aptan vid: ad þetta verdi ekki rekid. Þad verdur ei annad skilid af þessum ordum, enn Fjølnir meini ad Bækur þær sem á seinustu árum prentadar eru í Videy, midi beinlínis til ad niðurdrepa allri mentun, og líklegast er þetta meint um allar þadan útkomnar bækur, því eingin er undantekin. Eg vona ad einginn skinsamur madur efist um, ad þad mundi standa í Fjølnir ef hann ætti ad færa sønnur á þetta; því hver mundi t. d. samsinna hønum í því, ad Sunnanpósturinn midi mentuninni til niðurdreps*)? edur er þad ecki alkunnugt ad Rit þetta inniheldur margar gódar, nitsamar hugleidingar? Eg vil

*) Fyrir utan Sunnanpóstinn hafa margar gódar og nitsamar Bækur komid frá Prentverkinu í Videy á seinni árum; Eg vil nú einúngis nefna nockrar af þeim, svosem Messusaungsbókina, Lærdómsbókina, Sturmshugvekju=bindin, Passíu=sálma, Bastholms=Høfudlærdóma, Herslebs Prédikanir, Þorláksqver, Hallgrímsqver, Hosters Agrip, Campes Sidalærdóm, Bjarnabænir, Stafrofsqver, Barnagull, og óhætt er hér vid ad bæta Harmoníu, medan enginn verdur svo heppinn, ad eignast þá lagfærdu Utgáfu hennar, sem auglýst er í Sunnanp. No. 2. bls. 31 og 32. og þannig ad hrinda þeirri eldri úr sæti. Sé svo ad þessar bækur drepi alla mentun, þá veit eg ecki hvad Fjølnir kallar gódar bækur, eda hvada vitnisburd hann sjálfur verdskuldar.

ecki géta þess, ad adfinnsla Sunnanpóstsins vid Fjølnir hafi hleipt í þennann sídstnefnda slíkum fitons anda, ad hann þessvegna hafi villst frá sannleikans veigi; og er hitt því líkara, ad þetta komi af einsýni Fjølnis, er hann máské ecki sjer hvad mentunina gétur uppbigt eda hvad hana nidurdrepur. Þó ad nú svo væri, ad Fjølnir hefdi meint þetta til bóka þeirra er hann sýnist ad bera hvad mesta óvild til, svosem Rímnanna og gømlu Gudrækniss-bókanna, þá er samt alt ad einu mikilstil ofdjúpt tekid í árinni; enda vantar Fjølnir og ástædur til ad færa sønnur á mál sitt, og þess gætu menn þó altjend vænt af honum, ad hann ei bæri skíkann óhródur um neina bók, án þess hann sannadi søgu sína.

Í enda klausunnar víkur Fjølnir sér ad Yfirvøldum lands vors, og þá tekur nú í hnúkana; hann segir ad þau láti sig aungvu varda hvornin prentverkid brúkist, eda hvad prentad sé. Þetta er ecki fallegt ef satt væri og nockur vildi trúa því — en bótin er, ad þartil muny fáir verda, endaþótt Fjølnir taungladist á því aptur og aptur. Þad þarf meir enn medallags ósvífni til ad bera slík ósannindi á dugleg Yfirvøld; og géti Rithøfundur Fjølnis ei sannfærst um þad, ad hann í þessu falli fari med ósannindi, gæti hann reint til ad útgéfa eitthvad þad sem mótstædilegt væri lagabodum vorum um prentúnarfrelsid, og reina svo hvort hann fengi þad prentad í Videy, því lidu Yfirvøldin þad, þá hefdi hann fyrst fullkomna ástædu til ad segja, ad Yfirvøldin létu sig aungvu varda, hvad prentad væri. Skommu seinna enn þessi sídstu ord standa skrád, og á

sömu bls. (nefnil. 93) tekur Fjölnir héradauki enn svo til orda: Enn, ef Yfirvöldin hætta ad hafa nockur afskipti af prentverkinu og því sem prentad er, þá er líka ad mestu úti um ad skipta sér af því, hvørnig fer um almúga uppfrædínguna í landi þessu; og géti landid án þess verid, þarf þad heldur ecki Yfirvalda vid í mørgu ødru sem þó er látid koma til þeirra. Fjølnir hefur sjálfur ádur sagt þad: ad Yfirvøldin létu sig aungvu varda hvørnin prentverkid væri brúkad; svo ad þetta; enn ef Yfirvøldin hætta ad hafa nockur afskipti af prentverkinu etc þurfti ecki med, og þaraf leidir þá, ad hann sjálfur segir, ad landid þurfi ecki Yfirvalda med í mørgu ødru, sem þó komi til þeirra. Þad mætti ólíklegt þikja, ad madur sá, hvørjum stjórnin hefur trúad fyrir embætti, léti sér slík ord um munn fara, og líklegt er, ad allir sjái hvad leidt gétur af því, þegar reint er til ad innræta þad hjá fólki, ad Yfirvøldin séu til lítils gagns og landid géti án þeirra verid í mørgu, sem þó sé lagt undir þau. Mér finnst þetta gánga næst því sem menn í ødrum løndum kalla óeirdarskrif, og er mikill ábirgdarhluti hjá þeim mønnum er slíkt gjøra og merki stjórnarinnar þolinmædi er hún lætur prenta slíkt.

Þad er ad sjá á Fjølni ad honum sárni þad hvad mest vid Yfirvøldin, ad þau hafa leift ad prenta Rímurnar og gømlu Gudsordabækurnar, en þetta er óforsjállegt og fávíslegt, því þau hafa í rauninni aungva skuld á því; Hvørnin eiga Stiftsyfirvøldin t. d.

ad banna prentun á þeim bókum sem løgin banna ecki ad prentadar séu? eda væri þad fallegt, ef Yfirvøldin einúngis létu prenta þær bækur sem þau sjálf vildu, og breittu í því þvert á móti løggjøf vorri, ad banna mønnum ad láta prenta þad er menn þó eptir henni (Løggjøfinni) hefdu heimild til? Eg mun meiga fullyrda þad, ad þad væri órétt ef svo væri breitt, og því fer betur ad þad er ecki.

Sama er ad segja um fyrirstødumann prentverksins, ad þad væri ótilhlýdilegt, ef hann ei vildi prenta þad er fólk eptiræskir, og þad væri ad gjøra mønnum rángindi, ef hann synjadi um prentun meinlausra bóka, endaþótt þær ei ætíd væru eptir ósk hans; eg veit ei heldur hvørninn prentverkid ætti ad haldast vid, ef eckért eda lítid eitt væri prentad, og medan eckért betra bídst, er yfirburda náttúrlegt, þó madurinn taki vid því, er honum berst ad høndum, og adrir óska eptir, á medan ecki bídst annad betra. Þetta er nú því heldur vorkun, sem eg hefi heyrt ad hann hafi leitast eptir ad fá betri Ritgjørdir, svo sem til ad minda hjá Rithøfundi Fjølnis, en hafi þó eckért fengid.

Í annann stad má segja þad um rimurnar ad þó þær ei allar séu gódar þá eru þær þó ecki svo vondar sem Fjølnir segir. Því þó þær ei gjøri móské mikid um ad efla upplýsínguna, þá gétur madur þó ecki sagt ad þær séu mentuninni beinlínis nidurdreps. Allir vita líka ad almenníngur ann þeim og hefur skémtun af þeim, og eg veit ecki hversvegna madur í þessu leidindafulla landi, á ad banna fólki meinlausa skémtun. Þeir sem

vel þeckja til gamanbóka annara landa, munu samsinna því, ad innan um þær finnast ímsar sem ecki eru mikid betri enn Íslendsku Rímurnar; og hvad ætli ad frjálsar þjódir mundu segja, ef þeim væri bannad ad prenta meinlausar gaman-bækur?

Nú er ad minnast á nockrar af hinum Bókunum er Fjölnir telur ad aungvu nítar, og um hvörjar hann kémst svo ad ordi „Þad er ervidt ad gjöra fullkomlega áreidanleg skil fyrir því, hvad mikid fé nú á sídustu árum farid hafi útúr landinu fyrir ónitju og þarfleisu bækur þessar" (Fjölnir bladf. 99); og nú telur hann upp allar þessar bækur, af hvörjum mestur hluti eru Rímna- og Gudsorda-bækur, er hann ádur hefur kallad gömlu Gudsorda-bækurnar (jafnvel þó sumar af þeim ei séu svo gamlar) A medal þessara bóka eru nú sérílagi tvær bækur er eg verd ad fara nockud fleirum ordum um; hin fyrsta af þessum eru: Stúrmshugvekjusálmarnir, er hann eptir Ritþöfundi þeirra kallar Hjaltalínssálmana og prentadir voru 1835. Þad fyrsta sem mér datt í hug þegar eg las þetta, var: ad mig minnti ad hinn sami Ritþöfundur hefdi þó ádur ad nockru leiti hælt þeim; og þegar eg fór ad gá ad, sá eg ad mig ecki hafdi rángminnt, því á Fjölnis ödru ári bladf. 45 kémst þessi sami Rithöfundur svo ad ordi: „Þessvegna var þad vel farid ad hugvekjusálmar Jóns Prests Hjaltalíns komu á prent; því þeir eru ecki illa lagadir til ad vera Qvoldsálmar medan lesid er í Stúrmshug-

vekjum" Það er eptirtakaverdt hvad minnislítill Fjolnir er; og hvad honum er gjarnt ad mótmæla sjálfum sér, því hafi svo verid, ad það var vel farid ad tédir Sálmar komu á prent fyrir 4um árum, og hafi þeir þá verid lagadir til hússlestra, þá sjá allir heilvita menn, ad ecki hafa Sálmarnir tekid þeirri umbreytingu sídan (því ecki eru þeir ennú prentadir optar enn einusinni) ad þeir nú þirftu ad teljast á medal ónitju og þarfleisu bóka. Flestum mun vera svo varid, ad þeim þykir ei mikid til þeirra mentunarmanna koma, sem mótsegja sjálfum sér, og er það ad vísu mála sannast, ad lítid er ad henda reidur á dómum þeirra manna, sem segja sitt í hvørju ordinu, og dæma um hlutina eins og í þeim veltist vømbin. Eg ætla ecki ad fara mørgum ordum um það, hvada vidtøku Sálmar þessir hafa fengid, en það má eg þó segja, ad þeir hjá øllum skinsamari mønnum hafa komist í gott álit; og þó Rithøfundurinn ad Bréfinu frá austfjørdum, hafi uppá ímsann máta fundid ad þeim, þá munu margir finna, ad það er uppsprottid af sérvitsku þessa góda og lærda! manns.

Nú er ad víkja málinu til hinnar bókarinnar sem og svo hefur ordid fyrir því óhappi ad teljast á medal hinna ónítu bókanna, og er það Dýralækningabók mín, sem prentud var í Kaupmannahøfn vorid 1837; og er það þá fyrst til þess ad taka, ad það er stutt og gagnord adfinning (Recensjon) um eina Bók, ad segja ad hún sé ónít og óþorf, og líklegt væri ad sérhvør Rithøfundur sem nockra sómatilfinning hefur, ei léti sér

nægja med slíkann slettudóm. Það er og líka óskiljanlegt, að nockrum Ritþøfundi skuli detta það í hug, að hann svoleiðis hafi vit á öllum hlutum, að honum dugi sú aðfinníng, þegar hann aungva ástæðu framber fyrir dómi sínum; já það lítur að vísu svo út, sem Fjølnir ætlist til, að maður trúi orðum hans í blindni, og án þess að hann þurfi að færa sønnur á mál sitt. En viti Fjølnir það þá, hafi hann ei vitað það fyrr, að það dugir ei á voru tímabili að brjótast fram með eintómum slettudómum, og ástæðulausum álíktunum, sem ecki eru bigðar á øðru enn sjálfbirgíngs sjálfsáliti. Þegar eg ritaði téða bók, hafði eg bæði fyrir mér bækur þær er vóru í hinu besta áliti erlendis, og líka ráðfærði eg mig við menn þá, er þar báru best skinbragð á dýralækníngar, svo eg var ecki einðæmur um það, að bæklíngurinn var allvel saminn, og lagaður svo eptir þørfum lands vors sem hægt var. Eg bjóst því við, að þeir sem kynnu að setja útá bókina, mundu þó að minnsta kosti sýna mér þá velvild, að segja náqvæmlega hvað þeim þækti að Bókinni, því það vissa eg og veit ennú (hvað sem Fjølnir segir) að hún ecki er ónít, ef rétt er með hana farið. Það hefur allatíma legið í landi hér, að flestallar nýar bækur hafa mætt mótspirnu í fyrstu, og þessvegna bjóst eg við, að svo kinni að verða um Bækling þennann; og því vakti það hjá mér stóra ánægju, þegar eg heyrði að fleiri af hinum vitrustu mønnum á Landinu hældu honum og þóktu hann nitsamur; en þess síður átti eg og von á því að øðruleiti, að einn er litla eður aungva þeck-

íng ber á Dýralækníngar, mundi bera slíkann ógrundádann dóm yfir ádur nefndann bækling, sem Rithöfundur Fjølnis gjørir; aungvu ad sídur mundi eg hafa þolad þetta þolinmódlega, hefdi dómur hans verid á nockru viti bigdur. Allir vita hvada stands Rithöfundur Fjølnis er, og hvad hann hefur lagt fyrir sig, og þad mun líka ad ødrulagi flestøllum kunnugt, ad prestar bera litla þeckíngu á Dýralækníngar, og skjaldgjæft mun þad, ad þessir menn fari ad setja útá (recensere) Dýralækníngabækur. En þad sjest á þessu sem ødru, ad sjálfgjædíngsskapurinn gétur blindad manninn og gjørt hann svo, ad hann þykist allfær ad dæma um þad, er hann þó í raun réttri eckért skinbragd ber á — já — þad mun vera óhætt ad fullyrda þad, ad Fjølnir sé fánýtur manna- og dýra-læknir. Eg veit og ei heldur, satt ad segja, hvadan honum kæmi vitska sú, nema ef hún væri upprunnin í Fjósinu, Fjárhúsunum eda Hesthúsunum á Breidabólstad. En med því Fjølnir nú hefur talid áдurnefnda Bók óníta, þá má eg segja honum þad, ad eg ber eilíft bleidi-ord á bak honum, ef hann ei á næsta ári med gildum ástædum finnur ad henni og færir sønnur á frammburd sinn um hana; því allir sem þeckja almenníng, géta gétid því nærri, hvada skada slíkir hleipidómar, sem Fjølnir brúkar um tédann Bækling, géta gjørt Bók þeirri, er mida á til þess ad verda ødrum ad gagni, og sem eg er viss um, ad Bæklíngurinn gæti ordid, ef hann væri réttilega medfarinn. Eg veit best, ad eg fer med eingin ósann-

indi þó eg segi það, að eg gjörði það ei einúngis ávinníngsins vegna að útgéfa áðurnefnda Dýralækn-ínga Bók; enda hefur naumlega ennþá verið keipt svo mikið af henni, að andvyrði þess sé nóg fyrir Prent-unar kostnaðinn. Það er því óhætt að fullvissa Fjølnir um það, að ecki eru nærri, því hálft svo mikl-ir peníngar géngnir útúr landinu fyrir hana sem hann hefur gjört ráð fyrir; og þessvegna verð eg að biðja herra Fjølnir í næsta árgángi að færa ástæður fyrir orðum sínum um það, að Dýralækníngabókin „einúng-is sé prentuð í ávinníngs-von" svo sem hann kémst að orði á blads. 114, því þángað til hann hefur gjørt það, voga eg mér að kalla hann: ósvífinn ósanninda mann — og ættsvarinn Lokabróðir.

Nú er að snúa málinu að øðru, og tala dálítið um Bókaval Fjølnis og álit hans um erlendar bækur, af hvørjum hann, eptir sínu áliti, upptelur á bls. 113 hinar helstu er hann æskir að mætti verða snúið á íslendska túngu. Það er markverdt í þessu, hvaða kjærleika Fjølnir allt í einu hefur féngið til sumra gømlu bókanna, er flestum þeim, er vit á bera, munu þika léttvægar, svona er því t. a. m. háttað um Pølitz mannfrædi, sem prentuð er í Leipzig 1800. Bók þessi er hvørki spáný eða velløgud til mann-frædi, og sýnir það fávitsku Fjølnis, er hann ei bar kénnsli á neina betri í þessu efni. Sama er að segja um Sibberns Psychologie sem Fjølnir ræður íslendskum Prestum að útvega sér; því bæði er það, að bókin ei gétur kallast ný nú á tímum, og þarað-

auki mun hún mikilstil of torveld fyrir íslendska presta, er ad vonum þeckja ei svo náqvæmlega til sálarfrædirnar; og er án efa mørg ønnur nýari sálarfrædi betur til þessa fallin. Þá er og ad minnast nockud á Lækníngabók Jóns Pétursonar sem Fjølnir líka hælir, (bls. 103) og vill á ad gitska med því sýna fólki, ad hann sé ogsvo allvel ad sér í Læknisfrædinni; en þad er um þessa bók ad segja, ad hún er ein med þeim aumari vísindabókum er á seinni tímum birtst hafa á Íslandi; því bædi er þad, ad hún ei upptelur helst þeirra sjúkdóma sem algengastir eru á landi hér, og líka er medferd hennar á þeim fáu sem hún upptelur, eins ófullkomin og sumstadar gagnstæd því rétta, þad er líka ecki ad furda, því þó Jón Pétursson væri merkur og duglegur Læknir á sinni tíd, þá er ei nockur von ad Rit hans (sem þar ad auki af honum vart mun hafa verid fullgjørt) géti nú eptir 50 ár verid samsvarandi voru tímabili; því þad mun flestum lærdum mønnum kunnugt, ad fá vísindi hafa tekid meiri framførum enn Læknisfrædin á hinum seinni tímunum. Þad hefur ádur áséest, ad Fjølnir er án efa aumlega ad sér í Læknisfrædi, og eg vil þessvegna leggja honum þau heilrædi, ad dæma ei mikid um Lækníngar eda lækninga bækur; því annars kinni ad fara álíka fyrir honum og Prestinum sem nýlega vildi standa Læknispróf í Kaupmannahøfn og fécк þann vitnisburd ad hann væri immaturus (óhæfilegur).

Gaman er ad lesa Fjølnir þegar hann fer ad

tala um Sunnanpóstinn og Arnapostillu; því þó hann ei allstadar þori ad qveda uppúr, er samt sem ádur audskil-inn í honum andinn. Þad má nú nærri géta, ad honum muni járna vid Sunnanpóstinn þar hann hef-ur vogad ad finna ad Fjølni, því þad hefur fyrri á-sjest, ad Fjølni þikir værna um þá sem hæla hon-um, enn hina, sem finna ad vid hann. Mér hefur lengi verid þad minnisstædt, hvad feiginn Fjølnir vard á ødru ári sínu, ad taka vid Bréfinu frá Austfjørdum, enda þótt þad væri sérvitskufullt. Eg held eg meigi fullyrda þad, ad þetta hafi verid þad einasta hólbréf sem Fjølnir hefir feingid, enda sá og strax á, ad hann vard því sárfeiginn, og svo mjøg skémdi þá sjálfselskan smeck hans, ad hann lét prenta þad í sjálfum sér; má-ské af því ad hann hefur hugsad: „ef eg hrósa mér ecki sjálfur, þá verdur mín dýrd eingin." Þad er ecki ætlun mín ad taka upp þickjuna fyrir Sunnan-póstinn, því eg álít Rithøfunda hans lángtum færari um ad tala máli hans enn eg er, einúngis vil eg segja Fjølni þad, ad eg hefi aldrei gétad sjed þad á Sunn-anpóstinum „ad honum liggi vid ad vera drjúgum af Fátækt sinni" (eins og Fjølnir segir á bls. 115) og þad mun sannast ad segja um þad, ad ef meta á fátækt beggja þessara Bóka (Sunnanpóstsins og Fjølnis) þá er eg hræddur um, ad Herra Fjølnir ecki verdi mikid ólíkari betlaramúnkunum enn Sunnan-pósturinn.

Á bladsídu 116, víkur Fjølnir máli sínu til Arnapostillu, og eidir nú 12 bladsídum af sínu dýrmæta

innihaldi!!! til ad finna ad henni. Eg held þad hefdi verid betra fyrir Fjølnir ad undanfella þessa adfinníngu (Recension) því þad er sjaldgjæft hjá Lærdum mønnum erlendis, ad menn fari ad finna ad bókum þeim sem fyrir mørgum árum prentadar eru, og sem fyrir laungu hafa áunnid sér almennings hrós *). Þad er svo margt sem Fjølnir finnur ad bók þessari, ad þad yrdi bædi oflángt, og of fjarlægt áformi mínu ad minnast á þad allt saman; þessvegna vil eg einúngis drepa á eina klausu sem stendur nedan-verdt á 119. bls. í Fjølni og sem hljódar svo „Þad er optast hin almennilega gudrækilega trúin sem verid er ad mæla fram med í bók þessari enn ecki hin kristilega sáluhjálplega trú," þad hefdi verid gaman ef Herra Fjølnir hefdi viljad fræda fólk á þeim mismun sem hann lætur vera á millum hinnar gudrækilegu og kristilegu trúar, eda hvørs vegna hann sýnist ad tala um þær sem tvær gagnstædar trúar tegundir? ad ødrulægi er eg hræddur um, ad Sjóndepra Fjølnis eigi þátt í því, ad hann ecki hefur gétad fundid nema lítid ádrep af hinni kristilegu trúnni, á einni bladsídu í allri Arnapostillu, því eg vil heldur géta þess, enn

*) Þad er óhætt ad fullyrda þad, ad Arna Postilla bædi hefur fengid og líka verdskuldar almennings hrós; og til merkis um þetta er, þad, ad hún ad ødru sinni (ad fornspurdum Herra Fjølni) er nú í prentun í Videy, og er mér sagt, ad menn hafi aungvann gaum gefid ad adfindni Fjølnis.

hins, ad ádur talin ord hans, komi af heimsku eda íllvilja.

Þegar Fjølnir er búinn ad afljúka sér vid Arnapostillu, fer hann á bls. 129 ad minnast á Gudfrædis kénnsluna í Skólanum; og þad má nú nærri géta, ad þessum spánýa og øbluga Gudfrædis hesti ecki muni þika mikid til hennar kóma, enda er og audsjed ad honum er mikid nidri fyrir, þegar hann fer ad finna ad henni. Hvørgi qvedur samt einsmikid ad adfinníngu hans sem á bls. 134 hvar hann kémst svo ad ordi: „Þeir géta allir borid um þad sem lært hafa í Besſastadaskóla, hvurt þeir tímarnir vóru ecki flestum til litillra edur eingra andlegra framfara, sem þeir sátu vid ad hripa upp þennann lestur.“ Þetta meinar Fjølnir nú um Gudfrædis fyrirlestrana í ádurnefndum Skóla, og væri þetta ljót saga ef sønn væri; — en bótin er, ad eg held ad færri af Skólabrædrum Rithøfundsins séu honum samdóma í þessu, og þad væri ílla farid um Gudfrædiskénnsluna á landi hér, ef þetta væri satt. Eg mun meiga fullirda þad, ad Island hafi marga góda Presta sem aldrei hafa lært vid Háskólann í Kaupmannahøfn, og hvadan hafa þeir fengid Gudfrædi sína nema frá Besſastada Skóla? þad munu heldur engin ósannindi, ad Gudfrædis fyrirlestrarnir í Besſastada Skóla hafa verid lángtum betur af hendi leistir enn Fjølnir segir; — man eg þad, ad eg heyrdi duglegann Gudfrædismann í Kaupmannahøfn minnast þess, ad hann hefdi haft mikid gagn

af Gudfrædis kénnslu þeirri er hann hafdi numid í Beſsaſtada Skóla, og var þó madur þeſsi bædi ſann-ordur og hafdi affſtadid próf í Gudfrædinni vid Há-ſkólann; minniſt eg og þeſs, ad eg hefi heyrt adra ſem verid hafa í ádur nefndum Skóla fara líkum ordum hér um. Ad ødruleiti má eg ſegja Fiølni þad, ad eg veit ei hvad mjøg þad ſambídur þacklæti og vyrdíngu þeirri ſem madur ætíd ſkuldar gømlum frædara ſínum, ad tala eins um kénnſlu hans og hér er gjørt.

Þad munu fleſtir hugſa, ad þared Rithøfundur Fjølnis ſvo mjøg nidurnídir kénnſluna í Skólanum, þá mundi hann betur vera fær um ad kénna Gudfrædina enn hinn, ſem kénnir hana í tédum ſtad; ei ad ſídur hefur nú reynſlan ſýnt, ad tví-ſjed mundi verda um þetta, því fáir dagar eru nú ſídan ad tveir Skólapilt-ar, ſem útſkrifadir vóru af Rithøfundi Fjølnis, hafa ordid fyrir því óhappi, ad verda apturreka úr Skólan-um, og er mér ſagt ad þeir háfi verid mjøg báglega ad ſér í Gudfrædi.

Þegar Fjølnir er búinn ad afljúka ſér um Bók-mentir ockar og kénnſluna í Beſsaſtadaſkóla, víkur hann nú máli ſínu til vina ſinna og þó fyrſt þeirra, ſem honum eru næſtir, nefnilega Preſtanna og Pró-faſtanna, og er allrameſti barlómur í honum (ſatt ad ſegja, ecki án verdſkuldunar) um þad, hvad tekjur þeſs-ara ſídſtnefndu ſéu rírar, og vid þennann barlóm end-ar nú þeſsi flockur Fjølnis.

Nú byrjar Fréttabálkurinn og segir hann fyrst frá því, hvørnin árað hafi, og mun það að mestuleiti fara nærri lagi. Því næst fer hann að tala um kaupverslunina og fer fyrst nockrum orðum um hvað bágleg hún hafi verið fyrir innlenda í fyrra Sumar. Að því búnu minnist hánn á bænarskrána sem send var til fulltrúa Þíngsins í Hróarskéldu, drepur lítið eitt á innihald hennar og segir (á bls. 14) að „það verði skémtilegt og eptirtektaverdt að heyra hvørsu henni reiði af" — ójá — það er að vísu satt, að afreiðsla þessarar bænarskrár, er eptirtektaverð fyrir Fjølnir, því hún sýnir það, hvað mikilvægt það sé, að fara aldrei með ósannindi, og framberа það eina er menn gjæti fært sønnur á, því það mun ecki hafa bætt um fyri bænarskrá þessari, að hún sumstaðar var orðum aukin *).

Fjølnir segir nú ennfremur um Kaupverslunina, „af báðum þessum røkum varð verslanin einkanlegast svo erwið í sumar var; því það verður fyrst ecki tekið sem ecki er til; og er landinu betri eingin kaupverslan, enn slík, sem ecki hefur annað á boðstólum enn brennivín og óþarfa." Það verður valla annað skilið á orðum þessum enn að Reykjavíkur verslunarmenn hafi haft lítið annað að bjóða enn brennivín og óþarfa vørur; og er von að Kaupmønnum sárni þegar þeir

*) Sjá Groſserer P. C. Knutzons Svar i Roeskilde Stænder=Tidende pag. 937.

verda fyrir slíkum ósannindum, og Fjølnir þaráofan er svo ósvifinn ad láta prenta slíkt. Sjest þad á, ad hann bíst ei vid ad eiga ad færa sønnur á ord sín, og þad mætti hann þó vita, ad Kaupmenn, sem adrir, géta krafist þess af honum. Eg vil nú reina til ad sannfæra Fjølnir um þad, ad þad mundi máské standa í honum, ef hann ætti ad sanna þetta og þessvegna vil eg hér fara fleirum ordum um vøruleifar þær, er í firra um midt sumar, vóru ad lidinni Kauptíd eptir í Reykjavík og sem vóru: 557½ Tunnur af Rúgji; 435½ Tunnur af mjøli; 98¾ Tunnur af Bánkabyggi; 66 Tunnur af Baunum; 8184 pund af Braudi; 566 sextíu fadma lángar og 485 fjørutíu fadma lángar færislínur; 488 Lísipund af hampi; 546½ Tyltir af bordum; 43½ Tyltir af plaunkum; 349 stórtré og stjakar; 674½ Lísipund af Járni, 1¼ Tunna af Tjøru; 21 Tunna Steinkola; 972½ Tunnur af Salti. Þad er adgætandi ad Grosserer P. C. Knutzon og Grosserer Schmidt samt Kaupmadur Petersen og Borgararnir Robb og Simon Hansen áttu mestan þátt í vøruleifum þessum, og þó einkanlega af þessum þeir þrír fyrstøldu. Auk þessa komu í Augúst og September mánudi nockur skip med naudsynja vørur til Herra Factor Th. H. Thomsen, sem høfdu medferdar 505 Tunnur af Salti; 260 Tunnur af Steinkolum; 425 Tunnur af Rúgji; 38 Tunnur af Bánkabiggi; 34 Stórpokar med Baunum; 5 Tunnur Tjøru, 50 Stórpokar af Mjøli, af hvørjum hvør tók 12 Lísipund; 4 Tyltir af Bordum og 500 pund af Hampi.

Ennfremur vóru hér vid árslokin eptirfylgjandi vøruleifar hjá Grosserer Knutzon, Jensen og Smidt samt Grosserer Smidt og Kaupmanni Petersen; **472** Tunnur af Kornvøru; **8940** Pund af Brandi, **2013** Tunnur af Salti; **155** Tunnur af Steinkolum; **383**, **60**fadma lángar og **537**, **40** fadma lángar Færislínur; **9630** Pund af Járni; **249** Tré; **144** Tylftir af Bordum; **18** Plánkar; **3134** Pund af flotholti; **4854** Pund af Hampi.

Eg ætla ad Fjølnir muni géta rádid þad af þessu (ef hann annars er læs) ad aldrei hefur verid skortur á naudsynja vørum í Reykjavík árid sem leid, og ad þad verda ad vera einber ósannindi sem hann segir skømmu seinna á bladsí: 14, hvar hann kémst svo ad ordum; „— Reykjavíkingar høfdu átt ad sæta af henni (nefnil. Høndluninni) hinum þíngstu búsifjum; þarsem handverksmennirnir urdu ad flýa burtu, er þeir hvørki gátu feingid hjá Kaupmønnum timbur, járn, steinkol, né annad eins og þeir þurftu med." Þad væri undarlegt ef ad Kaupmennirnir sem høfdu allt, þetta, ecki hefdu viljad selja Handverksmønnum þad; og þad mun óhætt ad fullyrda, ad þetta fari eptir mørgu ødru sem Fjølnir segir, og sem hann aldrei gétur fært sønnur á.

Á bladsídu 29 (í þessum flocki) fer Fjølnir ad kénna mønnum íslensku, og hefur hann þá ádur fundid ad vid Sunnanpóstinn, um þad, ad málid í honum sé

ecki gott. Eg ætla ecki ad fara mørgum ordum um narrahátt Fjølnis í þessum efnum, nú sem endrarnær, því hann er alþecktur, svosem t. a. m. þegar verid er ad umskapa stáda og manna nøfn, og ótal ønnur þessu lík sérvitska, sem honum og hans áhángendum er svo algeing.

Pad væri gaman ad einhvør vildi géfa ndqvæmann gaum ad adferd og anda Fjølnis, þar sem hann er ad tala um Bókmentirnar, einúngis til ad sjá hvad fallegur hann er og sjálfum sér samqvæmur; hann finnur t. a. m. ad því, hvad litid sé skrifad af nýum bókum, og nidurnídir þó næstum allar þær fáu, sem á seinni tímunum skrifadar eru, mætti hann þá í raun réttri ei óska ad eckért væri skrifad? þegar honum þikir allt, sem skrád er, ónítt, ad Fjølnir undanteknum. Hann finnur ad gømlu bókunum og þykir þær ónítar; en hrósar þó bókum þeim er prentadar vóru um aldamótin; eru þær þá nýar? hann finnur ad Gudfrædis kénnslunni í skólanum; en hrósar þó á endanum Kénnaranum; er þá sá kénnari hrósverdur sem ecki gétur kénnt? Hann finnur ad, en framber þó aungvar ástædur fyrir adfinnslu sinni; hann gjørir fólki smánandi gérsakir um þad, er hann aldrei gétur fært sønnur á; hann dæmir med heimsku og sjálfdæmi um þá hluti er hann eckért skynbragd ber á; og hvad verst er, hann fer med lýgi sem hann aldrei gétur sannad *).

*) Svo sem litid merki þess hvad Fjølnir er skreitinn, vil eg hér

Fjølnir vill vera allt og í øllu; hann vill vera Bóndi, Prestur, Sýslumadur, Læknir og Kaupmad-

---

géta eins hlutar; — á bladsídu 98 segir hann. „Tistrans rímur eru ad nockruleiti gefnar út á opinberann kostnad; því Þær eru prentadar med peníngum Þeim — 300 rbdl. — sem Rentukammerid gaf Handverkssveini einum, er hann átti ad fara heim til Íslands úr Kaupmanna-hofn. Ef Þetta væri satt, Þá ættu Tistrans Rímur ad hafa verid ærid kostnadursamar; — Því Þared 3 menn voru um ad láta prenta allt upplagid sem ei var meir enn 1000 Exemplør, Þá hefdu Rímurnar eptir Þessu, jafnvel Þó Þær séu ei meira enn 6 arkir, átt ad kosta 900 rbdl.; og Þessi eini sem gjøfina hafdi fengid frá Rentukammerinu, hefdi Þá átt ad borga 300 rbdl. fyrir prentun á 2ur ørkum, hvørra upplag Þó ei var stærra enn ádur er umgetid. En Þetta er eins og ønnur sanníndi Fjølnis, Því eptir reikníngi sem enn er til sýnis frá Preutara Møller í Kaupmannahøfn, hefur allur prentunarkostnadurinn ei verid meiri enn 74 rbdl. Sømuleidis á bls. 100, segir Fjølnir, ad Rímur Þessar hafi verid seldar á 32 ß. r. Silfurs, en Þar í hefir Fjølni skjátlad dálitid, Því Þær vóru aldrei seldar af útgéfurunum nema 36 ß. í røru verdi (sem Þá var gyldandi hér í landi) sem útgjørir í Silfurverdi 24 ß. en í blárri kápu á 40 ß. v. verds, sem ei getur ordid nema 26⅔ ß. r. Silfurs, svo hér af má sjá, ad Fjølnir ætlar ecki ad gjøra Þad endaslept med Rímur Þessar, Þar Þær eru nú aptur ordnar ad hans jórturs = tuggu.

ur, svo ecki er annað sýna enn að hann á endanum verði margbreyttur og hjákátlegur mannvillíngur og viðrini.

Það er heyrum kunnugt hvaða maður Nithøfundur Fjølnis er, og að hann í mørgu er vitur maður og vel að sér; hefur hann og fremur mørgum ødrum landa vorra, haft tækifæri og þol til að sjá og heyra margt það er mikinn lærdóm má af nema. Þessvègna var það að margir munu hafa ætlast til mikils af honum og búist við því að hann hagaði skrifum sínum ødruvísi enn ennú er orðið, og eg efast ei um það, að þessi maður; ef hann ei geingi útfyrir takmørkin og skrifaði með meiri varkárni, gæti hann orðið Føðurlandi sínu til mikils gagns og heiðurs.

Aður enn eg skil við aðfinníngu Fjølnis verð eg að segja honum einn hlut; en það er það, er hann segir á blaðs. 98; „af því má aptur ráða að eckért blaðið í bókum þessum sé eins dýrmætt eins og það sem prentvillurnar eru á." Það er gamall málsháttur í landi hér: að þeim farist ílla að bæta brok annara sem berir eru um r...... sjálfir, og þetta sannast einmidt á Fjølni, því ærnar prentvillur finnast í honum sjálfum; og þó hefur hann verið svo sjóndapur, að hann ei gat fundið meira enn eina sem hann til að sýna snilli sína, hefur sett aptanvið. Eg nenni nú ei að vera að tína upp þessar prentvillur hans, til að færa honum heim sanninn, því eg vil ecki vera að taka frá honum grafskrift þá er Holberg sálugi

gaf slíkum Rithøfundum og sem Fjølnir svo heidarlega hefur forþénad; hún hljódar svo:

Byskriveren **Lars Hich**, som orthographisk var,
Og ringste Bogstavs Feyl, ey kunde pardonnere,
Med Sveeden tog sig for, det af examinere:
Blev vred, da han et *i*, foruden Tödel saae,
Skreeg: Inden stakket Tid, et Barbarie vi faae.
Den Roes Byskriveren, man ikke let betager,
At han jo accurat, var udi slige Sager:
Han for en Bogstav kom, med andre tidt i Haar.
Af sligt den gode Mand, og fik sit Banesaar *).

*) *Holbergs Peder Paars; fjerde Bog, anden Sang.*



